*LÖGBERG P. O., ASSA.,*

7. Apríl.

Herra ritstj.—Síðastl. viku hefir tíðarfarið haldið áfram, eða öllu heldr breyzt, svo, að nú er í fyllsta máta alvarlegt útlit hér fyrir almenningi. Allir vóru að vonast eftir bata upp úr páskunum („mæla börn sem vilja“), en í stað þess skall hér á síðdags á laugardaginn fyrir páska stórhríð með fannkomu mikilli, sem hélzt alla nóttina fram á morgun, birti þá upp og var allgott á sjálfan hátíðardaginn. Aftr á mánudaginn síðdags skall hér á af norðri annar hríðarbylrinn öllu verri en hinn með feykilegri fahnkomu; stundar upprof næsta morgun. Það sem af er þessum mánuði, hafa hór verið hríðar með mikilli úrkomu, ýmist af norðri eða suðri; stundum með nokkru frosti, stundum frostlaust (krap). Útlitið er orðið óttalegt með skepnur hjá almenningi. Nú er enginn, sem öðrum getr bjargað, sárfáir sjálfbjarga. Sumir eru búnir að vera heylausir svo lengi og reyta hina, sem betr vóru staddir; nú eru allir orðnir eins, að gefa síðustu tuggurnar. Það bætir líka stórum ofan á fóðrskortinn, að hveitimylnur hafa ekkert unnið fyrir langan tíma á nærliggjandi stöðum, svo hvergi fæst hér shorts eða bran. Auðvitað er hér peningaleysi svo mikið, að margir gætu ekki borgað einn shortspoka, ef hann væri fenginn frá Manitoba.—Það er líka eins og mörgum finnist óhugsandi að framfæra skepnur sínar á kornmat. Margir hverjir halda, sem verða heylausir, að þeir þurfi ekki að gefa nema þá og þá vikuna, fara svo til náungans og reyta út úr honum hálft eða kannske heilt æki. Svona líða vikur, máske mánuðir, svo þeir sem vóru upphaflega sjálfbjarga, verða eins og hinir, í stað þess, ef þeir sem verst eru staddir með heybjörg, snéru sér að því í tíma, að fá korn til fóðrléttis handa skepnum sínum, þá mundi betr fara; sem sagt, hér nærliggjandi fékst hvorki shorts né bran; auðvitað mátti panta það frá fjarliggjandi stöðum, en menn hefðu getað snúið sér að öðru, nefnilega, að kaupa ómalað korn, sem nú er í lágu verði, og hluta það í sundr (almenningr hér veit þó að hlutari („Chopper“) er til hér um bil í miðri bygðinni). Eins og allir vita er þetta gott fóðr handa gripum; þetta kostaði anðvitað dálítið meira ómak í byrjuninni, en að fara til nábúa síns og fá hjá honum eitt æki af heyi, en það mundi hafa betri afleiðingar, og meira verða landar heima á Fróni oft að leggja í sölurnar til að bjarga bústofni sínum, fyrir utan að þetta er fóðr ódýrara eftir kornverði sem nú er, heldr en hey, þegar það er stigið upp í $4—5 ton-ið af sinu-heyi, eða $3 af littnýtri sinu-haustslægju, sem í flestum árum mundi ekki álítast að borga fyrirhöfn að flytja það nokkrar mílur.

Yðar með virðing,

*Jacob Lindal.*

(1893)

Herra ritstj.—Síðastl. viku hefir tíðarfarið haldið áfram, eða öllu heldr breyzt, svo, að nú er í fyllsta máta alvarlegt útlit hér fyrir almenningi. Allir vóru að vonast eftir bata upp úr páskunum („mæla börn sem vilja“), en í stað þess skall hér á síðdags á laugardaginn fyrir páska stórhríð með fannkomu mikilli, sem hélzt alla nóttina fram á morgun, birti þá upp og var allgott á sjálfan hátíðardaginn. Aftr á mánudaginn síðdags skall hér á af norðri annar hríðarbylrinn öllu verri en hinn með feykilegri fahnkomu; stundar upprof næsta morgun. Það sem af er þessum mánuði, hafa hór verið hríðsr með mikilli úrkomu, ýmist af norðri eða suðri; stundum með nokkru frosti, stundum frostlaust (krap). Útlitið or orðið óttalegt með skepnur hjá almenningi. Nú er enginn, sem öðrum getr bjargað, sárfálr sjálfbjarga. Sumir eru búnir að vera heylausir svo lengi og reyta hina, sem betr vóru staddir; nú eru allir orðnir eins, að gefa síðustu tuggurnar. Það bætir líka stórum ofan á fóðrskortinn, að hveitimylnur hafa ekkert unnið fyrir langan tíma á nærliggjandi stöðum, svo hvergi fæst hér shorts eða bran. Auðvitað er hér peningaleyni svo mikið, að margir gætu ekki borgað einn shortspoka, ef hann væri fenginn frá Manitoba.— Það er líka eins og mörgum finnist óhugsandi að framfæra skepnur sínar á kornmat. Margir hverjir halda, sem [?] verða heylausir, að þeir þurti ekki að gefa nema þá og þá vikuna, fara svo til náungans og reyta út úr honum hálft eða kannske heilt æki. Svona líða vikur, máske mánuðir, svo þeir sem vóru upphaflega sjálfbjarga, verða eins og hinir, í stað þess, ef þeir sem verst eru staddir með heybjörg, snéru ser að því í tíma, að fá korn til fóðrléttis handa skepnum sínum, þá mundi betr fara; san sagt, hér nærliggjandi fékst hvorki shorts né bran; auðvitað mátti panta það frá fjarliggjandi stöðum, en menn hefðu getað snúið sér að öðru, nefnilega, að kaupa ómalað korn, sem nú er í lágu verði, og hluta það í sundr (almeaningr hér veit þó að hlutari („Chopper“) er til hér um bil í miðri bygðinni). Eins og allir vita er þetta gott fóðr handa gripum; þetta kostaði andvitað dálítið meira ómak í byrjuninni, en að fara til nábúa síns og fá hjá honum eitt æki af heyi, en það mundi hafa betri afleiðingar, og meira verða landar heima á Fróni oft að leggja í sölurnar til að bjarga bústofni sínum, fyrir utan að þetta er fóðr ódýrara eftir kornverði sem nú er, heldr en hey, þegar það er stigið upp í $4--5 ton-ið af sinu-heyl, eða $3 af littnýtri sinu-haustslægju, sem í flestum árum mundi ekki álítast að borga fyrirhöfn að flytja það nokkrar mílur.

Herra ritstj.—Síðastl. viku hefir tíðarfarið haldið áfram, eða öllu heldr breyzt, svo, að nú er í fyllsta máta alvarlegt útlit hér fyrir almenningi. Allir vóru að vonast eftir bata upp úr páskunum („mæla börn sem vilja“), en í stað þess skall hér á síðdags á laugardaginn fyrir páska stórhríð með fannkomu mikilli, sem hélzt alla nóttina fram á morgun, birti þá upp og var allgott á sjálfan hátíðardaginn. Aftr á mánudaginn síð-